


VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

Stéttabaráttan





5. tölublað | 9. árgangur | 25.2.-9.3. 1980 | Verð kr 300.-


# Félagmálapakkinn er „Bólginn af innan – tómum fagurgala“

*rætt við Helgu Gunnarsdóttur*

Vbl. hefur haft spurnir af því að allmargir BSRB félagar hafi fundað nokkrum sinnum s.l. viku til að bera saman bækur sínar um kröfugerð BSRB og stöðu samningamálanna. Hópurinn kallar sig Áhugasama félaga. Vbl. tók einn áhugasaman félaga Helgu Gunnarsdóttur, tali og spurði tíðinda af hópnum. Fer viðtalið hér á eftir.

Hvert er upphaf hópsins og tilgangur?

"Það má segja að tíðindaleysi hafi verið upphafið. Almennt má segja, að þeir BSRB félagar sem bak við þessa hreyfingu standa hafi haft áhuga á kröfugerð samtaka sinna og framgangi samningamála, en frétt lítið og því farið á stúfana sjálfir til að afla upplýsinga. Það hefur því miður verið of lítið gert til að skapa umræðu um kröfugerðina og efla samstöðu BSRB-félaga. Úr þessu viljum við bæta."


framh. í opnu.


# Er svigrúm til grunnkaupshækkunar?

Boðuð stefna

Stjórnarsáttmáli Gunnarsstjórnarinnar gerir ekki ráð fyrir grunnkaupshækkunum, ekki einu sinni að kjaraskerðing síðustu missera verði bætt. Efnahagsmálatillögur Alþýðubandalagsins gengu út frá sömu stefnu, og hana hefur Ragnar Arnalds, fjármálaráðherra, ákaft ítrekað með staðhæfingum um að ekki sé svigrúm til grunnkaupshækkana. Og hver er svo skýringin? Jú, það er verið að leysa verðbólguvandann og hann á sem sé að leysa á kosnað launafólks eina ferðina enn.

Kauphækkun=verðbólga?

En eru til leiðir til að leysa verðbólguvandann? Hefur ekki kauphækkun verðbólguaukningu í för með sér hvað sem tautar og raular? Og liggur sökin ekki hjá verkalýðshreyfingunni? Þetta er blekking. Vísitölubinding launa er sett til að kaup haldi raungildi í samræmi við gerða samninga hverju sinni, en ekki til að hækka raungildi launa. Það sem m.a. veldur verðbólgunni, er að atvinnurekendur með ríkisvaldið í fararbroddi hlaupast frá gerðum samningum um kaupmátt launa með því að hleypa hækkunum, sem eru eftirá leiðrétt kjararskerðing, beint út í verðlagið með hækkuðu vöruverði. Þetta hefur gerst þrátt fyrir svokallað "strangt verðlagseftirlit" síðustu ár og áratugi. Síðan hefst barátta launafólks á nýjan leik til að fá leiðréttingu á kjaraskerðingunni. Svona hefur þetta gengið fyrir sig í megindráttum allt frá árinu 1942 og frá þeim tíma hefur kaupmáttur launa ekki aukist sem neinu nemur að meðaltali. Sveiflur hafa aftur á móti verið miklar milli ára.

Aðrar leiðir

En hvað er til ráða í stöðunni? Eiga kommúnistar að leggja til ráð til að púkka upp á auðvaldskerfið? Auðvitað má benda á ráð sem gagnast verkafólki. Ráð sem skapað gætu svigrúm til grunnkaupshækkana og unnið gegn verðbólgunni.

Í fyrsta lagi má nefna, að það er auðvelt fyrir ríkisvaldið að koma í veg fyrir að umsömdum kauphækkunum sé velt út í verðlagið og kjarasamningum þar með rift einhliða. Eina sem þarf til er vilji til verksins.

Í öðru lagi má minna Ragnar Arnalds á hugmynd sem hann hefur sett fram um að leggja veltuskatt á skattlaus fyrirtæki. Ragnar hefur á hverju ári veifað listum yfir 500 til 600 skattlaus fyrirtæki. Nú ber vel í veiði. Ragnar er orðinn fjármálaráðherra og honum ætti ekki að verða


framh. á bls. 6.




Viðkvæðið er gjarnan að atvinnuvegirnir beri sig ekki þegar rætt er um kauphækkanir. En skyldu menn hugleiða að það er þetta fólk sem ber uppi atvinnuvegina.




### Balukistan í Pakistan

Nokkur hundruð pakistanskra balúkista, sem þjálfaðir hafa verið í Moskvu og á Kúbu, eru nú staðsettir Afganistanmegin við landamærin í Balúkistan. Þar bíða þeir eftir skipun frá Sovétríkjunum um að hefja herferð til þess að kljúfa pakistanska hluta Balúkistan frá Pakistan.

Fjöldi balúkista af Marri-ættstofni flúði frá pakistanska Balúkistan á árunum 1973–77 til Afganistan. Meira en 1000 þessara flóttamanna hafa dvalið við vopnaþjálfun í Sovétríkjunum og á Kúbu og hafa auk þess fengið vænan skammt af pólitíksri fóðrun.

o

### Víetnam – Kampútsea – Thailand

Thailenska blaðið Nation Review birtir frásagnir, viðtöl og myndir af víetnömskum flóttamönnum sem komið hafa frá Víetnam fótgangandi yfir Kampútseu. Samkvæmt upplýsingum Flóttamannahjálpar Sameinuðu Þjóðanna eru nú yfir 500 víetnamskra flóttamanna í búðum við landamæri Kampútseu og Thailands, þar af um 300 í Khao I Dang sem er rétt við Aranyaprathet. Flóttafólkið hefur sumt flúið beint frá Víetnam en annað úr vinnubúðum sem það hafði verið flutt til í Kampútseu frá Víetnam.

o

### Noregur

Í forystugrein sovéska blaðsins Pravda 19.2. s.l. er Noregur ásakaður um að hafa brotið allar reglur um vinsamlega sambúð við Sovétríkin. Greinin segir Noreg hafa brotið kjarnorkuvopna- og herstöðvapólitík sína með því að samþykkja áætlanir NATO um staðsetningu vopnabirgða á norsku landi. Þessi sovéska árás á Noreg er liður í víðtækri sovéskri herferð gegn Noregi. Greinar með ásökunum og illmælgi um Noreg hafa birtst í mörgum sovéskum blöðum að undanförnu.

o

### Kampútsea

Innan skamms mun sendinefnd Kampútseu hjá Sameinuðu Þjóðunum leggja fram gögn sem sanna að Víetnam notar eiturgas og eiturefni í hernaðinum í Kampútseu. Sömuleiðis mun Rauða krossinum verða afhent mótmælaorðsending. Um 100 manns deyja daglega af völdum þessa eiturhernaðar. Eiturgashernaðurinn er mest í Pailin í Battambanghéraði og í nágrenni bæjarins Lesch í norður hluta landsins. Dreyfing eiturefnanna er mest á svæðinu norður af Ankon Wat-musterinu. Er eitrinu dreift úr flugvélum.

---

Talsvert hefur gustað af umræðu um Olympíuleikana sem halda á í Sovétríkjunum á sumri komanda. Verkalýðsblaðið – Stéttabaráttan hefur lítið tjáð sig um málið þó svo að flestum lesendum sé það væntanlega ljóst hvaða stefna er ofan á.

Margir hafa orðið til þess að leggja orð í belg og það af hinum ýmsu hvötum. Þannig hafa íhaldsmenn og maóistar lagst á eitt með stefnu Carters (með nokkuð ólíkum hætti þó), vinstrisinnar ýmiss konar hafa tvístigið í málinu, en íþróttamenn og allur þorri almennings hefur viljað fara hægt í sakirnar ófús að eftirláta stjórnmálamönnum að ákveða í málum íþróttanna. Hitt ber einnig að líta á að allur almenningur tekur mjög eindregið afstöðu gegn framferði Sovétríkjanna í Afganistan, því máli sem komið hefur róti á hugi manna í sambandi við Olympíuleikana.

"Einn biti lands hér, eitt stykki smáþjóð..." Það er olían í sovéska frelsiskyndilinn.

# Pólitískur leikur að íþróttum

### Af hverju hunsun?

Stefna okkar kommúnista hefur verið afdráttarlaus gagnvart utanríkisstefnu Sovétríkjanna, en hvað koma leikarnir utanríkisstefnunni við? Ég tel OL. vera tækifæri fyrir allan þorra almennings til að segja álit sitt á hinni herskáu stefnu Sovétríkjanna gagnvart mörgum ríkjum heims, með sérstöku tilliti til Afganistans í dag. Það er ekki nóg að Carter setji á viðskiptabann, því Sovétríkin vita að hann er svarinn andstæðingur þeirra. Sovétríkin þurfa að finna áþreifanlega fyrir afstöðu almennings, þau verða að gera sér ljóst að almenningur getur gert meira en að finnast.

### Aðlögunarhæfni

Fólk virðist gætt einstökum aðlögunarhæfileika og umburðarlyndi og á slíkt treysta Sovétríkin. Einn biti lands hér eða þar, eitt stykki smáþjóð, augnabliks órói, en síðan fullkomin ró eða hvað? Sem betur fer sýnir afganska þjóðin okkur það að hún sættir sig ekki við hernám eða leppstjórn. Og sem betur fer virðist fólk flest í öðrum löndum láta sig málið varða.

erlent viðhorf

### Svari hver fyrir sig

Ég, ásamt fjöldanum öllum af íþróttaunnendum, myndi harma að ekkert yrði úr þessum Olympíuleikum. En er eitt lítið hernám (ef litið er framhjá Tékkó, Angóla, Eritreu eða Kampútseu svo nokkuð sé nefnt) svo mikið mál að vert sé að missa af öllum ánægjulegu sjónvarpssendingunum auk þess að valda sovéskum stjórnvöldum gríðarlegum búsifjum? Svari hver fyrir sig.

### Íþróttasjónarmið

Svo ég víki nokkrum orð-

Svo ég víki nokkrum orðum að hinni íþróttalegu hlið málsins, þá hefur því verið fleygt að aðgerðir á borð við hunsun á þátttöku muni færa leikana í gröfina fyrir fullt og allt. Aðrir hafa velt þeirri hugmynd fyrir sér hvort ekki væri best að halda leikana t.d. alltaf í Grikklandi.

Ég tel ekkert ólíklegt að hunsun á þátttöku yrði til þess að brestir myndu koma í ljós á þessum alþjóðasamskiptum. Ég tel raunar að það sé eðlilegt framhald á öðrum samskiptum þjóða í milli, svo sem hvort sjálfstæði sé virt. Hins vegar má einnig benda á að leikarnir féllu ekki endanlega niður eftir Berlínarleikana 1936, þrátt fyrir talsvert þátttökuleysi með Sovétríkin í broddi fylkingar.

Varðandi Grikklands-hugmyndina finnst mér hún hreint ekki fráleit, nema að því leyti að í Grikklandi gæti fasískt hernaðareinræði náð yfirhöndinni eins og 1967, og hvað þá?

### Viðbrögð í samræmi við ástand

Ég held að í málefnum OL., sem í öðrum mannlegum samskiptum verði aldrei gengið svo frá hnútum að ekki rakni. Við lifum í síbreytilegum heimi og því hljótum við að breyta háttum og samskiptum okkar í milli í samræmi við breytingar. Og hafa þannig áhrif á framvindu mála.

Í dag treður gestgjafi Olympíuleikanna smáþjóð undir hæl sér. Okkar er að bregðast við í samræmi við það hvort við teljum hernámið koma okkur við eða ekki.

Dáni

---

# – Er hægt að starfa með íhaldinu?

*– rætt við Albert Einarsson*

Innrás Sovétríkjanna í Afganistan og þróun alþjóðamála eftir hana hefur vakið margar spurningar og miklar umræður. Nokkur þeirra atriða verða tekin upp hér í viðtali við Albert Einarsson fyrrverandi ritstjóra Verkalýðsblaðsins.

**– Það er athyglisvert að nú fyrst eftir innrás Sovétríkjanna í Afganistan hafa augu margra opnast fyrir þeirri staðreynd að frá Sovétríkjunum starf stríðshætta. Blöð og aðilar, sem áður leiddu þetta hjá sér eða neituðu þessu birta nú greinar og umfjallanir, sem í veigamiklum atriðum eru samhljóða því sem Verkalýðsblaðið hefur sagt í mörg ár.**

– Er þá ný heimstyrjöld á næstu grösum?

– Það er spurning hvar næstu grös eru. Víst er að eins og horfir stefnir í stríð. Hvenær? Það er aftur á móti háð því hvernig og hversu mikið hægt er að seinka stríðsþróuninni. Ég held að innrásin í Afganistan sé sjálf út af fyrir sig ekki upphaf nýrrar heimsstyrjaldar, en augljóslega liður í undirbúningi. Málið fyrir Sovétríkin er að opna leiðina suður að Indlandshafi, en þá hafa þau umkringt eitt þeirra svæða sem eru stjórnlistarlega mikilvæg í stríði,

### Hvað með NATO og herinn?

**– Nú hefur það gerst að kommúnistar og íhald** hafa unnið saman að stuðningsaðgerð fyrir Afganistan. Þýðir þetta að kommúnistar standi nú NATO megin og séu tilbúnir til þess að sverja af sér kröfuna **um Ísland úr NATO og herinn burt?**



– Alls ekki, ekkert slíkt hefur komið fram. Ég tel að það sé rétt að vinna með íhaldinu og öllum öðrum að stuðningsstarfi við þjóðir sem berjast gegn erlendum her í landi sínu. Sá stuðningur sem fram kemur við baráttu Afgana á ekki að vera merktur með rauðum og bláum stimplum, hann á að vera skilyrðislaus. Við megum heldur ekki gera það að kröfu okkar að þátttaka í stuðningsstarfi sé bundin ákveðnum skilyrðum, eins og t.d. að allir þeir sem taki þátt séu fylgjandi kröfunni Ísland úr NATO og herinn burt. Á hinn bóginn tökum við ekki þátt í stuðningsaðgerð sem byggir á því m.a. að innrásin í Afganistan sýni nauðsyn þess að Ísland sé í NATO og að hér verði erlendur her.

Það er ekkert sem bannar kommúnistum að berjast áfram gegn íhaldi og erlendum herstöðvum á Íslandi, enda þótt þeir séu sammála íhaldinu um að Sovétríkin verði að fara frá Afganistan. Mér finnst **frekast að við ættum að** fagna því að íhaldið taki loksins þátt í því sem við kommúnistar höfum verið að starfa að lengi. Auk þess geri ég mér engar vonir um að forsprakkar íhaldsins verði varanlegir í þessu starfi, en hinsvegar er ég viss um að verulegur hluti fylgjenda íhaldsins mun taka framsæknari afstöðu eftir því sem umfang og breidd framsækins stuðningsstarfs, eins og t.d. við baráttu Afgana, verður meiri. Það er beinlínis hættulegt ef kommúnistar og framsækið fólk ætlar að einoka og einangra alþjóðlegt stuðningsstarf við sínar raðir eingöngu. Við þurfum að læra að vinna með pólitískum andstæðingum í málum þar sem við getum unnið saman. Við megum líka ekki hætta pólitísku baráttunni við þá. Í þessari pólitík í heild sinni er bæði eining og andstaða. Það sagði Maó líka og ég held að það sé **rétt og birtist m.a. í** svona tilfellum, þar sem við höfum einingu andstæðinga í ákveðnum málum á meðan þessi öfl eiga í sífelldri baráttu.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ Stéttabaráttan
Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

Útgefendur: Einingarsamtök kommúnista (m-l) og Kommúnistaflokkur Íslands m-l
Ritstjórar: Eiríkur Brynjólfsson
Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 8.30 - 12.30 alla virka daga
Sími: 29212
Pósthólf: 5186, 125 Reykjavík
Gírónr.: 27810-6, 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins

# Verkalýðsblaðið –Stéttabaráttan

Eins og lesendum Verkalýðsblaðsins og Stéttabaráttunnar er kunnugt hafa undanfarnar vikur staðið yfir sameiningarviðræður milli Einingarsamtaka kommúnista og Kommúnistaflokks Íslands. Þetta eru ekki fyrstu viðræður milli þessara samtaka en þessar eru þær árangursríkustu.

Þegar í upphafi þessa undirbúnings gerðu menn sér grein fyrir því að sameiningin var það sem að var stefnt. Nú standa yfir viðræður um stefnuskrá og lög nýrra samtaka.

Þegar undirbúningurinn hófst var ákveðið að sameina málgögn samtakanna fyrst enda var þar í fyrsta lagi full þörf sameiningar kraftanna og í öðru lagi tiltölulega fljótlegt að koma því um kring.

## Eitt blað í stað tveggja

Verkalýðsblaðið og Stéttabaráttan hafa því hætt að koma út og þess í stað lítur hér dagsins ljós eitt blað í stað hinna tveggja, Verkalýðsblaðið - Stéttabaráttan. Fyrst í stað mun blaðið bera þetta langa nafn enda er það málgagn tveggja samtaka. Nafnið breytist að líkindum þegar formleg sameining Eik og KFÍ er orðin að veruleika.

Fyrst í stað mun blaðið koma út á tveggja vikna fresti en öllum er ljóst þörf marx-lenínískrar hreyfingar á blaði sem kemur út oftar. Útgáfutíðnin verður því aukin eins fljótt og auðið er án þess að unnt sé að setja nein mörk enn sem komið er.

Við sameiningu blaðanna var notað það sem best var og nothæfast hjá hvoru blaði um sig.

Áskrifendur Stéttabaráttunnar og Verkalýðsblaðsins munu verða áskrifendur nýja blaðsins sjálfkrafa og þurfa ekki að tilkynna um áskrift. Áskriftargjöld sem kunna að hafa verið greidd öðru hvoru blaðanna fyrir árið 1980 renna til nýja blaðsins.

Það hefur komið í ljós við athugun að tiltölulega lítið var um að menn væru áskrifendur beggja blaðanna þannig að áskrifendafjöldi nýja blaðsins er viðunandi. En betur má ef duga skal. Útgáfutíðnin verður ekki aukin nema með auknum fjölda áskrifenda því að áskriftargjöld eru einu tekjur blaðsins enn sem komið er að minnsta kosti.

Ljóst er að stefna blaðsins mun óhjákvæmilega mótast af niðurstöðum þeirra viðræðna sem nú fara fram á milli fulltrúa Eik og KFÍ.




## Út úr einangrun

Meginviðfangsefni blaðsins sem og hinna nýju samtaka verður þó að hrista af sér hlekki einangrunarstefnunnar og ná til miklu stærri og fjölbreyttari hóps en nú er. Mönnum er að verða í ríkari mæli ljóst að einangrunarstefnan er miklu víðfeðmari og leynist miklu víðar en áður var talið. Í stuttu máli má segja að þessi stefna felist í því að forðast fjöldann og samtök fjöldans eftir megni og bera gjarnan við vondum og endurskoðunarsinnuðum foringjum hinna ýmsu fjöldahreyfinga. Marxistar á Íslandi hafa þróað þessa stefnu til óvenjulegrar "fullkomnunar" með þeim afleiðingum að þeir hafa ekki einu sinni getað starfað hverjir með öðrum, hvað þá öðru fólki. Sífelldar minniháttar trúarbragðastyrjaldir hafa síðan geisað milli samtakanna, þeim sjálfum og vinnandi fólki til hins mesta tjóns.

Einangrunarstefnan hefur einnig birst í því að loka samtökin og blöðin fyrir þeim sem ekki eru algerlega sammála starfi og stefnu þeirra.

## Ekki lokaskref

Hér verður að sjálfsögðu ekki gerð tilraun til að gera einangrunarstefnu tæmandi skil. Það verður verkefni nýrra samtaka og nýs blaðs að gera því frekari skil.

Stefna hins nýja blaðs mun því óhjákvæmilega mótast af þessu. Verkefnið er að brjótast út úr einangrun og ganga raunverulega inn í raðir vinnandi fólks á Íslandi.

Í þessu sambandi verða menn að gera sér það ljóst að sameining KFÍ og Eik er ekki lokaskref. Það táknar að vísu að sundrungunni sé lokið. En því fer fjarri að sameiningunni sé lokið. Þetta er aðeins fyrsta skrefið til að sameina öll sóaíalísk öfl til markvissrar baráttu fyrir markmiðum hreyfingarinnar.

E.B.

*Tillögur Alþýðubandalagsins 2. hluti*

# Að gera flokkinn ábyrgan

Eftir því sem Verkalýðsblaðið kemst næst hafa tillögur Abl. í efnahagsmálum lítið verið ræddar í flokknum. Hér er um að ræða dæmigerða stefnumótun í mikilvægum málum sem framkvæmd er af þingliði Alþýðubandalagsins án samráðs við almenna flokksmenn og án tillits til svokallaðra sósíalískra stefnumiða flokksins. Markmiðið er að gera flokkinn ábyrgan í augum hinna borgaralegu stjórnmálaflokkanna.

## Landshlutar misjafnir

Eins og getið var í síðustu grein gengur tillöguflutningur Abl. um framleiðniaukningu í fiskiðnaði út á það að núverandi nýting fiskafla sé aðeins 75% af algerri hámarksnýtingu.

Í blaðaskrifum Lúðvíks Jósepssonar til stuðnings tillögugerð Bandalagsins kemur í ljós, að ekkert ætti að vera auðveldara en að auka meðalframleiðnina í fiskiðnaði. Framleiðnin er nefnilega afar misjöfn t.d. eftir landshlutum. Með því að beina fjármagni t.d. til endurbyggingar og nýsköpunar í frystihúsum og vinnslustöðvum á Suðurnesjum og fleiri "vanþróuðum" svæðum mætti auka landsmeðaltalið allverulega.

Þessi röksemdafærsla verður ekki dregin hér í efa. Verkalýðsblaðið hefur ekki aðstöðu né sérfræðiþekkingu til þess. En eins og fyrr þá er þetta aðeins önnur hlið málsins. Alþýðubandalagsforystan gerir á engan hátt grein fyrir því hvað vinnulýðurinn fær í sinn hlut og hvernig.

## Hér ríkir auðvaldið

Setjum sem svo að verulegu fjármagni verði beint til byggingar stórra, hagkvæmra og nýtísku frystihúsa á Suðurnesjum. Hverjar yrðu fyrirsjáanlega beinar afleiðingar þess?

Að öllum líkindum myndi vinnsluhúsum og verkafólki sem vinnur á Suðurnesjum fækka. Fjárfestingin myndi skila sér með aukinni nýtingu, og minni tilkostnaði, þar með talinn launakostnaður sem rynni í sjóði "atvinnuveganna".

Myndi þetta leiða til t.d. betri kjara verkafólks á Suðurnesjum og á landinu öllu? Abl. segir svo vera.

Við hér á Verkalýðsblaðinu erum hins vegar ekki svo einfaldir. Öfugt við þingflokk Abl. gerum við ráð fyrir að þessar "framleiðsluaukandi" aðgerðir eigi sér stað við kapítalískar aðstæður. Aukinn gróði sem af þeim leiðir rennur til einkafyrirtækja á Suðurnesjum en hvorki sjálfkrafa til verkafólksins þar né til alls landslýðs. Og það

framh. á bls. 6.

# SÁÁ vinna gott starf

Samtök áhugafólks um áfengisvandamálið hafa hafið nýja sókn gegn áfengisbölinu og virðast hafa bundið enda á all langt stöðnunarskeið á þeim vettvangi. Galdurinn virðist einkum felast í því að virkja fjöldann til þess að horfast í augu við vandamálið og leggja hart að sér til að sigrast á því.

SÁÁ reka sjúkrastöð með 24 rúmum og endurhæfingarheimili fyrir 26, auk þess fræðslu- og leiðbeiningarstöð fyrir alkóhólista og aðstandendur þeirra að Lágmúla 9 í Reykjavík.

Ekki nóg með það, heldur eru gerðir út menn til að fara á vinnustaði og í skóla. Þeir Pjetur Mock og Vilhjálmur Svan voru á ferð á Ísafirði seint í janúar. Þeir höfðu frá mörgu að segja í skólunum og tókst aldeilis vel að ná eyrum nemenda og kennara. Það var nú eitthvað annað en áfengisfræðslan, sem boðið var upp á þegar ég var í skóla. Þeir bókstaflega áttu salinn.


Pjetur Maack og Vilhjálmur Svan við erindrekstur.

Pjetur þessi hefur aldrei látið dropa af áfengi inn fyrir sínar varir og drekkur bara mjólk á börum Reykjavíkurborgar. En Vilhjálmur Svan bætir það nú heldur betur upp, hann kveðst hafa verið í strætinu í a.m.k. 6 ár. Hann vinnur nú sem barþjónn og hefur ekki bragðað áfengi síðan 1976 (og það er ekki af því að hann komist ekki yfir vín!).

Þeir félagar nota fortölur og fræðslu, en ekki pillur og sprautur. Þeir leggja ríka áherslu á að alkóhólistinn verði sjálfur að sigrast á sjúkdóminum. Þeir sýna fram á að þessi sjúkdómur eigi sér fyrst og fremst félagslegar orsakir, en ekki líffræðilegar, því þurfi félagslega lækningu fremur en lyf. Þeir hættu sér ekki út í að greina þessar félagslegu orsakir, en lýstu á áhrifaríkan hátt með raunverulegum dæmum félagslegu afleiðingunum fyrir alkóhólistann sjálfan og ekki síður aðstandendur hans.

Þeir giska á að 1 af hverjum 10 séu að jafnaði alkóhólistar eða eigi eftir að verða það, samkvæmt því 22.000 Íslendingar! Bakkus velur sér ekki fórnarlömb eftir mannvirðingu, hann ræðst á fólk úr öllum stéttum.

Fæstir af þessum 22.000 viðurkenna að þeir eigi við vandamál að stríða. Þeim tekst oft að blekkja bæði sjálfa sig og aðra. Hversu marga alkóhólista þekkir þú, lesandi góður?

Fréttaritari



"Yfirlýsingar Ragnars eru engin ný bóla."

*Félagsmálapakkinn er*

# „bólginn af innantómum fagurgala"

*– rætt við Helgu Gunnarsdóttur*

Starfar hópurinn í andstöðu við forystu BSRB?

"Nei, alls ekki. Við lítum á þetta sem stuðningsstarf við stjórn og samninganefnd BSRB. En um leið gagnrýnum við seinagang samningaviðræðna og það hve kröfugerðin var seint tilbúin."

Hvert er álit þitt á kröfugerðinni?

"Mjög góð og framsækin. Sem dæmi má nefna í fyrsta lagi að gerðar eru kröfur um grunnkaupshækkanir sem eru mestar í lægstu launaflokkunum. Í öðru lagi er gerð skýr krafa um fullar verðbætur á laun. Í þriðja lagi má nefna að sett er fram krafa um að gildistími samnings verði samkomulagsatriði. Í fjórða lagi er svo imprað á atvinnuleysistryggingum fyrir opinbera starfsmenn, en því miður eru þær tillögur óljósar og ekki settar fram í aðalkröfugerðinni."

Ragnar Arnalds hefur marglýst því yfir, að ekki sé hægt að verða við grunnkaupshækkunum og býður fram félagsmálapakka í staðinn.

"Hagfræðingur BSRB, flokksbróðir Ragnars, hefur lýst því yfir, að 10–15% kjaraskerðing hafi átt sér stað á síðasta samningatímabili. Ragnar Arnalds stóð m.a. að þessari kjaraskerðingu með "vinstri stjórn" Ólafs Jóhannessonar. Yfirlýsingar Ragnars eru ekki ný bóla á þessum vettvangi.

Um félagsmálapakkann er það að segja, að BSRB-félagar eru ekki tilbúnir til að braska með sjálfsögð félagsleg réttindi. Nýjasti félagsmálapakkinn er líkur fyrirrennurum sínum, bólginn af innantómum fagurgala. Nú á launafólk að axla byrðar kreppunnar eina ferðina enn og í þetta sinn til að leysa verðbólguvandann. Það hvarflar ekki að Ragnari að snerta gróða þeirra sem hagnast hafa á verðbólguvandanum."

Eitthvað að lokum?

"Ja, kannski halst það, að ég er sammála Guðrúnu Halgadóttur, alþingismanni og flokkssystur Ragnars Arnalds, þar sem hún staðhæfir í blaðaviðtali nýlega, að laun skv. 21. launaflokki BSRB séu ekki lífvænleg. Þau nema 495.414 kr. á mánuði skv. núgildandi launatöflu.

Þ.

# Skrýtnar eru óskir íhaldsaflanna

## Horfurnar

"en áreiðanlega væri það heitasta ósk íhaldsaflanna, að verkalýðshreyfingin þrýsti á um launahækkanir með svo miklum krafti að þessi stjórn gæti ekki ráðið við eitt eða neitt."
(R. Arnalds 17.2. í Þjv.)

Öðru vísi mér áður brá, þær orðnar skrýtnar heitustu óskir íhaldsaflanna. En með þessu er búið að gefa tóninn. – Forysta Abl. og Afl. og þar með forysta verkalýðshreyfingarinnar eru á móti grunnkaupshækkunum eftir því sem best verður séð. Baráttan gegn verðbólgunni og erfið staða atvinnuveganna krefjast þess. Leiðrétting kaups til samræmis þeim kaupmætti sem náðist ´77 er ekki lengur á dagskrá hjá þessum fulltrúum okkar. VSÍ hefur lýst samstöðu með stefnu verkalýðsflokkanna s.k. og gefur alþýðunni langt nef.

## Staðan í viðræðunum

VSÍ hefur eðlilega í framhaldi af þessu hafnað kröfum ASÍ – lítur ekki á þær sem umræðugrundvöll. Á móti hafa atvinnurekendur gert þær kröfur að 1) samið verði til tveggja ára, 2) engar breytingar skuli gerðar á kjarasamningum sem hafi í för með sér aukinn heildarlaunakostnað, 3) verðbætur verði ekki greiddar nema á 6 mánaða fresti auk þess sem þær verði skertar enn frekar en orðið er.

## Kröfur ASÍ

Þótt kröfur ASÍ séu ekki beisnar og hafi í reynd ekki verið neitt annað en undansláttur í upphafi baráttunnar, tel ég að verkafólk eigi að knýja á um að baráttu sé komið af stað fyrir þeim.

Við verðum að líta á 5% kröfuna sem lágmarkskröfu og ekki hvika frá henni. Við verðum að leggja áherslu á að verðbætur verði greiddar í réttu hlutfalli við vísitölu framfærslukostnaðar, eins og fram kemur í kröfugerðinni. Hins vegar sé ég enga ástæðu til að gera fjölmörgum atvinnurekendum þann greiða að halda fast við það að verðbætur á laun fólks sem hefur yfir 400 þús kr. í mánaðartekjur skuli greiðast sem föst krónutala miðað við 400 þús. Jafnframt þarf að leggja áherslu á að fá félagslegu kröfurnar í gegn, en þær ganga mikið lengra heldur en sá "félagsmálapakki" sem stjórnin býður.

Sérkröfur félaganna, sem þau eiga sjálf að semja um, eru a.m.k. í sumum tilvikum ekki síður mikilvægar.

Að sjálfsögðu þýðir þetta ekki að við eigum að standa gegn stéttarfélögum sem fara af stað með hagstæðari kröfugerð, þvert á móti ber að styðja við bakið á þeim, það kemur öðru launafólki til góða.

## Er grundvöllur fyrir kauphækkunum?

Á heimilum alþýðufólks er vissulega grundvöllur fyrir kauphækkunum. Allir pólitísku flokkarnir og VSÍ segja hins vegar stöðu atvinnuveganna ekki bjóða uppá slíkt.

Í Verkalýðsblaðinu hefur áður verið bent á að ýmis stórfyrirtæki hafi undan litlu að kvarta. Álskalli er ánægður, horfur á hagstæðri útkomu járnblendis, Eimskip kaupir upp keppinauta – mikil aflasæld var á seinasta ári.

Hins vegar hafa frystihúsaeigendur kvartað sáran og t.d. útflytjendur ullar- og skinnavöru. Lausnarorð þeirra er gengisfelling.

Ég hef ekki mikinn aðgang að upplýsingum um stöðu þessara atvinnugreina. Með frystihúsaiðnaðinn er þó eitt ljóst. Úr þeirri atvinnugrein á sér stað gífurlegur fjármagnsútflutningur til Bandaríkjanna o.fl. landa. Auk þess hafa talsmenn SH sjálfir lýst því á undanförnum vikum að markaðurinn í Vesturheimi er mjög stöðugur.

## Nýir samningar nauðsyn

Núverandi verðbætur tryggja ekki kaupmátt launa. Ársfjórðungsleg kaupmáttarskerðing er veruleg. Hún var t.d. nú 1. febrúar metin um 2,5% frá 1. nóv.

Að öllu óbreyttu má búast við 10% skerðingu á þessu ári. Það er því nauðsyn að gerðir séu samningar sem fyrst sem innihaldi fullar verðbætur. Það er einnig skilyrðislaus krafa að ákvæði sé í samningum að þeir skuli lausir ef þeim sé hróflað.

Ragnar.



Ragnar Arnalds heldur því fram að VSÍ-foringjarnir vilji kauphækkanir. Ekki var annað að heyra, er þessi mynd var tekin þegar kröfugerð ASÍ var lögð fram, en að þeir Páll Sigurjónsson og Þorsteinn Pálsson væru nokkuð sammála verkalýðsforingjunum: Engar kauphækkanir í þetta skiptið!




Með samstöðunni má gera stóra hluti. Myndin er frá útifundi BSRB á Lækjartorgi 1977.

# Kröfugerð BSRB

Samningar BSRB og ríkisins runnu út 1. júní 1979. BSRB lagði kröfugerð sína fram í endanlegri mynd í nóvemberlok s.l., en hún átti að liggja fyrir 1. apríl 1979. Að öðru leyti hefur engin hreyfing verið á samningamálum. Þessi seinagangur og tómlæti forystu BSRB er ámælisverður.

## Staðan við mótun kröfugerðar

Gerð kröfugerðar fyrir aðalkjarasamning er almennt vandasamt verk. Ekki var vandinn minni eftir 13 mánaða stjórnartíð "vinstri stjórnar" Ólafs Jóhannessonar frá 1. sept 1978 til október 1979. Stjórnin, sem átti upphaf sitt í kröfunni um "samningana í gildi", skerti kaup félaga BSRB um 10 – 15%. Þessi staðreynd kemur glöggt fram við eftirfarandi samanburð á greiddum launum 1. sept. 1979 og launum eins og samningarnir gerðu ráð fyrir:

| Launafl. 3. þrep | Gr. laun 1/9 1979 | Laun skv. samn. | Kjaraskerðingin í kr. | í % |
|---|---|---|---|---|
| 1. | 224.040 | 253.053 | 29.013 | 11,5% |
| 7. | 272.983 | 308.334 | 35.351 | 11,5% |
| 9. | 295.973 | 334.302 | 38.329 | 11,5% |
| 11. | 316.336 | 357.302 | 40.966 | 11,5% |
| 13. | 340.200 | 384.256 | 44.056 | 11,5% |
| 15. | 394.061 | 411.207 | 47.146 | 11,5% |
| 19. | 411.787 | 465.113 | 53.326 | 11,5% |

## Launakröfur BSRB

Í þessari stöðu lagði BSRB fram kröfugerð sem gerir ráð fyrir talsverði grunnkaupshækkun umfram kröfuna um samningana í gildi og er krafa um hlutfallslega mesta hækkun í lægstu launaflokkunum. Eftirfarandi tafla endurspeglar þessar kröfur í sömu launaflokkum og taldir eru upp hér að framan:

| Launafl. 3. þrep | Kröfugerð | Hækkun miðað v/gr. laun % | og kr. | Hækkun viðað vi samn. í gildi % | og kr. |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. | 312.000 | 39% | 87.960 | 23% | 58.947 |
| 7. | 325.000 | 39% | 90.967 | 23% | 60.660 |
| 9. | 404.000 | 37% | 108.027 | 21% | 69.698 |
| 11. | 430.000 | 36% | 113.664 | 20% | 72.698 |
| 13. | 456.000 | 34% | 115.800 | 19% | 71.744 |
| 15. | 482.000 | 32% | 117.939 | 17% | 70.793 |
| 19. | 534.000 | 30% | 122.213 | 15% | 68.887 |
| 31. | 690.000 | 18% | 107.690 | 5% | 32.282 |

Kröfugerð BSRB og útreikningur hér að ofan er miðuð við laun 1. sept 1979 og breyttist eftir það í samræmi við hækkun framfærsluvísitölu. Hækkun launa nam 13,21% 1. des. sl. og 6,67% 1. mars og þarf að hækka tölur í töflunum um 14,09% til að fá samanburð við greidd laun í dag.

Kröfugerð BSRB.

Því hefur verið haldið á lofti, að bjartsýni gæti í kröfugerð BSRB og að hún sé loftkastalar. Félagar BSRB verða að vona, að semjendum kröfugerðarinnar hafi verið full alvara með henni. Fullvíst er, hvað sem öðru líður. að enginn getur talist ofsæll af mánaðarlaunum 15 fyrstu launaflokkanna skv. kröfugerðinni. Þau nægja ekki fyrir fjölskylduframfærslu.

## Aðrir mikilvægir þættir

Í kröfugerðinni eru ákvæði um að full verðlagsuppbót verði greidd á laun eftir óskertri framfærsluvísitölu sem kauplagsnefnd reiknar. Þá er gerð krafa um að samningstímabilið verið umsamið og að heimilt verði að segja upp kaupliðum samningsins með mánaðar uppsagnarfresti ef röskun verður á umsaminni vísitölu. Þessi ákvæði eru afar mikilvæg.

Vísir að félagsmálapakka fylgir kröfugerðinni, sjálfstæð tillaga í 6 liðum, sem áhersla er lögð á að viðræður fari fram um. Þar er m.a. fjallað um atvinnuleysistryggingar opinberra starfsmanna, en um þær hefði átt að fjalla í sjálfri kröfugerðinni. Vonandi verður ekki reynt að gera sjálfsögð félagsleg réttindi eina ferðina enn að verslunarvöru. Því höfnuðu félagar BSRB rækilega í atkvæðagreiðslunni um 3 prósentin í vor.

## Mat á kröfugerðinni – samningsstaðan

Í heild má telja kröfugerð BSRB frambærilega. Nauðsynlegt er að BSRB-félagar kynni sér efni hennar rækilega og fylgi henni fast á eftir. Ekki mun af veita. Ragnar Arnalds, fjármálaráðherra hefur marglýst því yfir, að ekki sé svigrúm til "grunnkaupshækkana", Gunnars-stjórn býður félagsmálapakka upp á 5 – 7 milljarða á næstu tveimur árum í stað kauphækkana. Það jafngildir liðlega 2% launahækkun í 1. launaflokki BSRB og tæplega 1% í efsta flokki miðað við að þessum milljörðum væri skipt jafnt í launaumslög allra launþega landsins næstu tvö árin. Þetta dugir engan veginn til að vega upp skerðingu á gömlu samningunum. Það er íhugunarefni fyrir baráttusinna innan BSRB, hverra erinda Alþýðubandalagið gengur þessa dagana.

Þ.



Kristján Thorlacius.

# „Við erum ekkert að slaka á"

*– rætt við Kristján Thorlacius*

Verkalýðsblaðið – Stéttabaráttan hafði samband við Kristján Thorlacius formann BSRB og spurði hann fyrst hvort samþykkt samninganefndar bandalagsins frá 16. febrúar s.l. um m.a. að "náð verði þeim kaupmætti sem samið var um í síðustu samningum" þýddi að BSRB hefði fallið frá fyrri kröfugerð sinni.

"Bandalagið heldur við sína kröfugerð" sagði Kristján. "Kröfugerðin miðar við í meginatriðum að samningarnir komi í gildi. Það er ein röksemdin. Það er ekki mótsögn milli þessarar ályktunar og kröfugerðarinnar. Við erum auðvitað ekki með henni að slaka neitt til í okkar kröfugerð."

Hvað hyggjast stjórn og samninganefnd bandalagsins fyrir um aðgerðir til að samningagerðin gangi fljótar fyrir sig, spurði V-S þessu næst.

"Í fyrsta lagi hafa fulltrúar samninganefndarinnar gert um það eindregna kröfu í viðræðum við fjármálaráðherrann að hann komi með gagntilboð og það sem allra fyrst. Við teljum að það sé grundvöllurinn að framhaldsviðræðum. Það mun að sjálfsögðu verða rætt í samninganefndinni hvaða aðferðir verða viðhafðar til að knýja á um samninga. Ein af þeim aðferðum sem lög gera ráð fyrir er verkfallsboðun. Hún verður að sjálfsögðu til umræðu í samninganefndinni ef samningar takast ekki. En á þessu stigi leggjum við áherslu á að fjármálaráðherrann komi með gagntillögu."

Hvaða afstöðu hefur stjórn og samninganefnd til svo kallaðra áhugasamra félaga sem látið hafa til sín heyra í blöðum, spurðum við Kristján að lokum.

"Ég hef ekkert heyrt frá þessum áhugasömu félögum, nema þá í fjölmiðlum. Ég hef þó ekki heyrt að hér væri um félagsskap að ræða. En öllum áhuga á okkar félagsmálum ber að fagna."

óhs

*Frá samninganefnd BSRB:*

# Slegið af launakröfunum?

Á fundi samninganefndar BSRB þ. 19. feb. sl. var eftirfarandi ályktun samþykkt:

"Samninganefnd BSRB beinir því til allra ríkis- og bæjarstarfsmannafélaga, að þau gangist á næstunni fyrir almennum fundum félagsmanna um væntanlega kjarasamninga, þar sem staðan í samningamálum og hugsanleg verkfallsboðun verði rædd og hvatt til samstöðu um eftirfarandi meginatriði:

a. verndun vísitölukerfis á laun allra opinberra starfsmanna.
b. aukinn rétt til samninga og verði gildistími samnings umsaminn hverju sinni
c. félagsleg réttindi starfsmanna og samtakanna.
d. náð verði þeim kaupmætti, sem um var samið í síðustu samningum, og aukið jafnrétti í launamálum."

Það er fagnaðarefni, að samninganefndin beiti sér nú fyrir starfsmannafundum þótt seint sé. Síðasti liður ályktunarinnar kemur frekar einkennilega fyrir sjónir, þegar það er haft í huga, að kröfugerðin gerir ráð fyrir umtalsverðum grunnkaupshækkunum umfram "samningana í gildi", þ.e. hækkun umfram skerðingu síðustu samninga, sér í lagi í lægstu launaflokkunum. Hér virðist samninganefndin vera farin að slá af kröfugerðinni áður en samningaviðræður hafa byrjað. Það er ekki efnilegt.

Þ.

*Félagsmálapakkinn er*

# „bólginn af innantómum fagurgala“

*– rætt við Helgu Gunnarsdóttur*



"Yfirlýsingar Ragnars eru engin ný bóla."

Starfar hópurinn í andstöðu við forystu BSRB?

"Nei, alls ekki. Við lítum á þetta sem stuðningsstarf við stjórn og samninganefnd BSRB. En um leið gagnrýnum við seinagang samningaviðræðna og það hve kröfugerðin var seint tilbúin."

Hvert er álit þitt á kröfugerðinni?

"Mjög góð og framsækin. Sem dæmi má nefna í fyrsta lagi að gerðar eru kröfur um grunnkaupshækkanir sem eru mestar í lægstu launaflokkunum. Í öðru lagi er gerð skýr krafa um fullar verðbætur á laun. Í þriðja lagi má nefna að sett er fram krafa um að gildistími samnings verði samkomulagsatriði. Í fjórða lagi er svo imprað á atvinnuleysistryggingum fyrir opinbera starfsmenn, en því miður eru þær tillögur óljósar og ekki settar fram í aðalkröfugerðinni."

Ragnar Arnalds hefur marglýst því yfir, að ekki sé hægt að verða við grunnkaupshækkunum og býður fram félagsmálapakka í staðinn.

"Hagfræðingur BSRB, flokksbróðir Ragnars, hefur lýst því yfir, að 10-15% kjaraskerðing hafi átt sér stað á síðasta samningatímabili. Ragnar Arnalds stóð m.a. að þessari kjaraskerðingu með "vinstri stjórn" Ólafs Jóhannessonar. Yfirlýsingar Ragnars eru ekki ný bóla á þessum vettvangi.

Um félagsmálapakkann er það að segja, að BSRB-félagar eru ekki tilbúnir til að braska með sjálfsögð félagsleg réttindi. Nýjasti félagsmálapakkinn er líkur fyrirrennurum sínum, bólginn af innantómum fagurgala. Nú á launafólk að axla byrðar kreppunnar eina ferðina enn og í þetta sinn til að leysa verðbólguvandann. Það hvarflar ekki að Ragnari að snerta gróða þeirra sem hagnast hafa á verðbólguvandanum."

Eitthvað að lokum?

"Ja, kannski helst það, að ég er sammála Guðrúnu Halgadóttur, alþingismanni og flokkssystur Ragnars Arnalds, þar sem hún staðhæfir í blaðaviðtali nýlega, að laun skv. 21. launaflokki BSRB séu ekki lífvænleg. Þau nema 495.414 kr. á mánuði skv. núgildandi launatöflu.

Þ.

# Skrýtnar eru óskir íhaldsaflanna

## Horfurnar

"en áreiðanlega væri það heitasta ósk íhaldsaflanna, að verkalýðshreyfingin þrýsti á um launahækkanir með svo miklum krafti að þessi stjórn gæti ekki ráðið við eitt eða neitt." (R. Arnalds 17.2. í Þjv.)

Öðru vísi mér áður brá, þær orðnar skrýtnar heitustu óskir íhaldsaflanna. En með þessu er búið að gefa tóninn. – Forysta Abl. og Afl. og þar með forysta verkalýðshreyfingarinnar eru á móti grunnkaupshækkunum eftir því sem best verður séð. Baráttan gegn verðbólgunni og erfið staða atvinnuveganna krefjast þess. Leiðrétting kaups til samræmis þeim kaupmætti sem náðist ´77 er ekki lengur á dagskrá hjá þessum fulltrúum okkar. VSÍ hefur lýst samstöðu með stefnu verkalýðsflokkanna s.k. og gefur alþýðunni langt nef.

## Staðan í viðræðunum

VSÍ hefur eðlilega í framhaldi af þessu hafnað kröfum ASÍ – lítur ekki á þær sem umræðugrundvöll. Á móti hafa atvinnurekendur gert þær kröfur að 1) samið verði til tveggja ára, 2) engar breytingar skuli gerðar á kjarasamningum sem hafi í för með sér aukinn heildarlaunakostnað, 3) verðbætur verði ekki greiddar nema á 6 mánaða fresti auk þess sem þær verði skertar enn frekar en orðið er.

## Kröfur ASÍ

Þótt kröfur ASÍ séu ekki beisnar og hafi í reynd ekki verið neitt annað en undansláttur í upphafi baráttunnar, tel ég að verkafólk eigi að knýja á um að baráttu sé komið af stað fyrir þeim.

Við verðum að líta á 5% kröfuna sem lágmarkskröfu og ekki hvika frá henni. Við verðum að leggja áherslu á að verðbætur verði greiddar í réttu hlutfalli við vísitölu framfærslukostnaðar, eins og fram kemur í kröfugerðinni. Hins vegar sé ég enga ástæðu til að gera fjölmörgum atvinnurekendum þann greiða að halda fast við það að verðbætur á laun fólks sem hefur yfir 400 þús kr. í mánaðartekjur skuli greiðast sem föst krónutala miðað við 400 þús. Jafnframt þarf að leggja áherslu á að fá félagslegu kröfurnar í gegn, en þær ganga mikið lengra heldur en sá "félagsmálapakki" sem stjórnin býður.

Sérkröfur félaganna, sem þau eiga sjálf að semja um, eru a.m.k. í sumum tilvikum ekki síður mikilvægar.

Að sjálfsögðu þýðir þetta ekki að við eigum að standa gegn stéttarfélögum sem fara af stað með hagstæðari kröfugerð, þvert á móti ber að styðja við bakið á þeim, það kemur öðru launafólki til góða.

## Er grundvöllur fyrir kauphækkunum?

Á heimilum alþýðufólks er vissulega grundvöllur fyrir kauphækkunum. Allir pólitísku flokkarnir og VSÍ segja hins vegar stöðu atvinnuveganna ekki bjóða uppá slíkt.

Í Verkalýðsblaðinu hefur áður verið bent á að ýmis stórfyrirtæki hafi undan litlu að kvarta. Álskalli er ánægður, horfur á hagstæðri útkomu járnblendis, Eimskip kaupir upp keppinauta – mikil aflasæld var á seinasta ári.

Hins vegar hafa frystihúsaeigendur kvartað sáran og t.d. útflytjendur ullar- og skinnavöru. Lausnarorð þeirra er gengisfelling.



Ragnar Arnalds heldur því fram að VSÍ-foringjarnir vilji kauphækkanir. Ekki var annað að heyra, er þessi mynd var tekin þegar kröfugerð ASÍ var lögð fram, en að þeir Páll Sigurjónsson og Þorsteinn Pálsson væru nokkuð sammála verkalýðsforingjunum: Engar kauphækkanir í þetta skiptið!

Ég hef ekki mikinn aðgang að upplýsingum um stöðu þessara atvinnugreina. Með frystihúsaiðnaðinn er þó eitt ljóst. Úr þeirri atvinnugrein á sér stað gífurlegur fjármagnsútflutningur til Bandaríkjanna o.fl. landa. Auk þess hafa talsmenn SH sjálfir lýst því á undanförnum vikum að markaðurinn í Vesturheimi er mjög stöðugur.

## Nýir samningar nauðsyn

Núverandi verðbætur tryggja ekki kaupmátt launa. Ársfjórðungsleg kaupmáttarskerðing er veruleg. Hún var t.d. nú 1. febrúar metin um 2,5% frá 1. nóv.

Að öllu óbreyttu má búast við 10% skerðingu á þessu ári. Það er því nauðsyn að gerðir séu samningar sem fyrst sem innihaldi fullar verðbætur. Það er einnig skilyrðislaus krafa að ákvæði sé í samningum að þeir skuli lausir ef þeim sé hróflað.

Ragnar.





Með samstöðunni má gera stóra hluti. Myndin er frá útifundi BSRB á Lækjartorgi 1977.

# Kröfugerð BSRB

Samningar BSRB og ríkisins runnu út 1. júní 1979. BSRB lagði kröfugerð sína fram í endanlegri mynd í nóvemberlok s.l., en hún átti að liggja fyrir 1. apríl 1979. Að öðru leyti hefur engin hreyfing verið á samningamálum. Þessi seinagangur og tómlæti forystu BSRB er ámælisverður.

## Staðan við mótun kröfugerðar

Gerð kröfugerðar fyrir aðalkjarasamning er almennt vandasamt verk. Ekki var vandinn minni eftir 13 mánaða stjórnartíð "vinstri stjórnar" Ólafs Jóhannessonar frá 1. sept 1978 til október 1979. Stjórnin, sem átti upphaf sitt í kröfunni um "samningana í gildi", skerti kaup félaga BSRB um 10 – 15%. Þessi staðreynd kemur glöggt fram við eftirfarandi samanburð á greiddum launum 1. sept. 1979 og launum eins og samningarnir gerðu ráð fyrir:

| Launafl. 3. þrep | Gr. laun 1/9 1979 | Laun skv. samn. | Kjaraskerðingin í kr. | í % |
|---|---|---|---|---|
| 1. | 224.040 | 253.053 | 29.013 | 11,5% |
| 7. | 272.983 | 308.334 | 35.351 | 11,5% |
| 9. | 295.973 | 334.302 | 38.329 | 11,5% |
| 11. | 316.336 | 357.302 | 40.966 | 11,5% |
| 13. | 340.200 | 384.256 | 44.056 | 11,5% |
| 15. | 394.061 | 411.207 | 47.146 | 11,5% |
| 19. | 411.787 | 465.113 | 53.326 | 11,5% |

## Launakröfur BSRB

Í þessari stöðu lagði BSRB fram kröfugerð sem gerir ráð fyrir talsverði grunnkaupshækkun umfram kröfuna um samningana í gildi og er krafa um hlutfallslega mesta hækkun í lægstu launaflokkunum. Eftirfarandi tafla endurspeglar þessar kröfur í sömu launaflokkum og taldir eru upp hér að framan:

| Launafl. 3. þrep | Kröfugerð | Hækkun miðað v/gr. laun % | og kr. | Hækkun viðað vi samn. í gildi % | og kr. |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. | 312.000 | 39% | 87.960 | 23% | 58.947 |
| 7. | 325.000 | 39% | 90.967 | 23% | 60.660 |
| 9. | 404.000 | 37% | 108.027 | 21% | 69.698 |
| 11. | 430.000 | 36% | 113.664 | 20% | 72.698 |
| 13. | 456.000 | 34% | 115.800 | 19% | 71.744 |
| 15. | 482.000 | 32% | 117.939 | 17% | 70.793 |
| 19. | 534.000 | 30% | 122.213 | 15% | 68.887 |
| 31. | 690.000 | 18% | 107.690 | 5% | 32.282 |

Kröfugerð BSRB og útreikningur hér að ofan er miðuð við laun 1. sept 1979 og breyttist eftir það í samræmi við hækkun framfærsluvísitölu. Hækkun launa nam 13,21% 1. des. sl. og 6,67% 1. mars og þarf að hækka tölur í töflunum um 14,09% til að fá samanburð við greidd laun í dag.

Kröfugerð BSRB.

Því hefur verið haldið á lofti, að bjartsýni gæti í kröfugerð BSRB og að hún sé loftkastalar. Félagar BSRB verða að vona, að semjendum kröfugerðarinnar hafi verið full alvara með henni. Fullvíst er, hvað sem öðru líður. að enginn getur talist ofsæll af mánaðarlaunum 15 fyrstu launaflokkanna skv. kröfugerðinni. Þau nægja ekki fyrir fjölskylduframfærslu.

## Aðrir mikilvægir þættir

Í kröfugerðinni eru ákvæði um að full verðlagsuppbót verði greidd á laun eftir óskertri framfærsluvísitölu sem kauplagsnefnd reiknar. Þá er gerð krafa um að samningstímabilið verið umsamið og að heimilt verði að segja upp kaupliðum samningsins með mánaðar uppsagnarfresti ef röskun verður á umsaminni vísitölu. Þessi ákvæði eru afar mikilvæg.

Vísir að félagsmálapakka fylgir kröfugerðinni, sjálfstæð tillaga í 6 liðum, sem áhersla er lögð á að viðræður fari fram um. Þar er m.a. fjallað um atvinnuleysistryggingar opinberra starfsmanna, en um þær hefði átt að fjalla í sjálfri kröfugerðinni. Vonandi verður ekki reynt að gera sjálfsögð félagsleg réttindi eina ferðina enn að verslunarvöru. Því höfnuðu félagar BSRB rækilega í atkvæðagreiðslunni um 3 prósentin í vor.

## Mat á kröfugerðinni – samningsstaðan

Í heild má telja kröfugerð BSRB frambærilega. Nauðsynlegt er að BSRB-félagar kynni sér efni hennar rækilega og fylgi henni fast á eftir. Ekki mun af veita. Ragnar Arnalds, fjármálaráðherra hefur marglýst því yfir, að ekki sé svigrúm til "grunnkaupshækkana", Gunnars-stjórn býður félagsmálapakka upp á 5 – 7 milljarða á næstu tveimur árum í stað kauphækkana. Það jafngildir liðlega 2% launahækkun í 1. launaflokki BSRB og tæplega 1% í efsta flokki miðað við að þessum milljörðum væri skipt jafnt í launaumslög allra launþega landsins næstu tvö árin. Þetta dugir engan veginn til að vega upp skerðingu á gömlu samningunum. Það er íhugunarefni fyrir baráttusinna innan BSRB, hverra erinda Alþýðubandalagið gengur þessa dagana.

Þ.

# „Við erum ekkert að slaka á“

*– rætt við Kristján Thorlacius*



Kristján Thorlacius.

Verkalýðsblaðið – Stéttabaráttan hafði samband við Kristján Thorlacius formann BSRB og spurði hann fyrst hvort samþykkt samninganefndar bandalagsins frá 16. febrúar s.l. um m.a. að "náð verði þeim kaupmætti sem samið var um í síðustu samningum" þýddi að BSRB hefði fallið frá fyrri kröfugerð sinni.

"Bandalagið heldur við sína kröfugerð" sagði Kristján. "Kröfugerðin miðar við í meginatriðum að samningarnir komi í gildi. Það er ein röksemdin. Það er ekki mótsögn milli þessarar ályktunar og kröfugerðarinnar. Við erum auðvitað ekki með henni að slaka neitt til í okkar kröfugerð."

Hvað hyggjast stjórn og samninganefnd bandalagsins fyrir um aðgerðir til að samningagerðin gangi fljótar fyrir sig, spurði V-S þessu næst.

"Í fyrsta lagi hafa fulltrúar samninganefndarinnar gert um það eindregna kröfu í viðræðum við fjármálaráðherrann að hann komi með gagntilboð og það sem allra fyrst. Við teljum að það sé grundvöllurinn að framhaldsviðræðum. Það mun að sjálfsögðu verða rætt í samninganefndinni hvaða aðferðir verða viðhafðar til að knýja á um samninga. Ein af þeim aðferðum sem lög gera ráð fyrir er verkfallsboðun. Hún verður að sjálfsögðu til umræðu í samninganefndinni ef samningar takast ekki. En á þessu stigi leggjum við áherslu á að fjármálaráðherrann komi með gagntillögu."

Hvaða afstöðu hefur stjórn og samninganefnd til svo kallaðra áhugasamra félaga sem látið hafa til sín heyra í blöðum, spurðum við Kristján að lokum.

"Ég hef ekkert heyrt frá þessum áhugasömu félögum, nema þá í fjölmiðlum. Ég hef þó ekki heyrt að hér væri um félagsskap að ræða. En öllum áhuga á okkar félagsmálum ber að fagna."

óhs

*Frá samninganefnd BSRB:*

# Slegið af launakröfunum?

Á fundi samninganefndar BSRB þ. 19. feb. sl. var eftirfarandi ályktun samþykkt:

"Samninganefnd BSRB beinir því til allra ríkis- og bæjarstarfsmannafélaga, að þau gangist á næstunni fyrir almennum fundum félagsmanna um væntanlega kjarasamninga, þar sem staðan í samningamálum og hugsanleg verkfallsboðun verði rædd og hvatt til samstöðu um eftirfarandi meginatriði:

a. verndun vísitölukerfis á laun allra opinberra starfsmanna.
b. aukinn rétt til samninga og verði gildistími samnings umsaminn hverju sinni
c. félagsleg réttindi starfsmanna og samtakanna.
d. náð verði þeim kaupmætti, sem um var samið í síðustu samningum, og aukið jafnrétti í launamálum."

Það er fagnaðarefni, að samninganefndin beiti sér nú fyrir starfsmannafundum þótt seint sé. Síðasti liður ályktunarinnar kemur frekar einkennilega fyrir sjónir, þegar það er haft í huga, að kröfugerðin gerir ráð fyrir umtalsverðum grunnkaupshækkunum umfram "samningana í gildi", þ.e. hækkun umfram skerðingu síðustu samninga, sér í lagi í lægstu launaflokkunum. Hér virðist samninganefndin vera farin að slá af kröfugerðinni áður en samningaviðræður hafa byrjað. Það er ekki efnilegt.

Þ.

skiptar skoðanir

# Vopnahlé við NATO?

Ýmsum þykir nú orðin vandasöm afstaðan til alþjóðamála. Til eru þeir, þ.á.m. sumir kommúnistar, sem segja að innrásin í Afganistan sé fyrst og fremst hvatning um aukna baráttu gegn hernaðarbandalögum - og á Íslandi þá sér í lagi NATO.

Fyrir mér er sú afstaða örugglega röng. Staða Sovétríkjanna sem "nýkomið á jötu" heimsvaldasinna, rekum þau í átt til enduruppskiptingar heimsins. Utanríkisstefna Sovét sl. 5 ár sýnir árásarhneigð þeirra svo skýrt að blindir mega sjá. Þá hafa Sovét á síðustu árum náð mun sterkari hernaðarstöðu en Bandaríkin.

Hafi áður verið vafi, ætti nú að vera ljóst, að baráttan við Sovét er höfuðverkefni heimsvaldaandstæðinga, líka á Íslandi. Innrásin í Afganistan setur á sama hátt baráttuna gegn NATO tiltölulega í skuggann. Spurningin er: eigum við að berjast við NATO áfram, aðeins með minni áherslu en fyrr, eða eigum við að semja þar einhvers konar tímabundið vopnahlé, eins og Maó & Co gerðu gagnvart Kuomintang í stríðinu við Japani? Ég svara ekki spurningunni, en spyr sjálfan mig og aðra kommúnista.

Hluti af þessari spurningu er þetta: hvert er hlutverk og gildi Miðnesherstöðvarinnar? Ég hygg hún sé aðallega eftirlits- og mögulega hernaðarstöð gegn austurblokkinni (hlutverk hennar gegn róttækri verkalýðsbaráttu hér er aukahlutverk). En er hún íslenskri þjóð til gagns í stríði sem Sovétar kæmu af stað eða ekki?

Hvað sem svarið við þessu er, þá útheimta nýir tímar nýja röksemdafærslu í málunum. Það stoðar lítið að juða á svikum Ólafs Tors og Hermanns.

Eitthvað róttækt verður að gera. Mín tillaga: Stofnuð verði þverpólitísk nefnd, "Upplýsinganefnd um heimsvaldaásælni og stríðshættu", sem ekki hafi ýtarlega stefnu fyrirfram, en komi þessari lífsnauðsynlegu umræðu úr sporunum.

Kári

# Frá ritstjóra

Herstöðvaandstæðingur og Kári vekja máls á afar mikilvægu máli, hvernig við marx-lenínistar eigum að snúa okkur í upplýsinga- og baráttustarfi gegn stríðsundirbúningi Sovétríkjanna. Hverjir eru raunverulegir vinir okkar þegar til lengri tíma er litið í þeirri baráttu; er framsækna hreyfingin nógu sterk, samhuga og meðvituð til að samfylkja með t.d. íhaldinu um ákveðin baráttumál, t.d. gegn innrás Rússa í Afganistan?

Í þessu tölublaði gerir Albert Einarsson grein fyrir þeirri afstöðu sem lá að baki myndun samfylkingarinnar með ungum jafnaðarmönnum, framsóknarmönnum, sjálfstæðismönnum og Vöku gegn innrásinni í Afganistan.

Í næstu tölublöðum munum við reyna að fá fram fleiri skoðanir. Umræða samfylking og almenn stefna marx-lenínista í þessum málum þurfa vissulega skoðanabaráttu við.

óhs

# Stéttarfélög í víglínuna

Mig langar til að leggja nokkur orð í belg í umræðuna um jafnréttismálin.

## Ástandið er bágborið

Ég hef það sterklega á tilfinninguni að EIK (m-l) og önnur róttæk.öfl hafi vanmetið mikilvægasta þátt kvennabaráttunnar. Hér á ég við stéttarfélögin. Þegar verkakvennafélögin voru stofnuð á 3. og 4. áratug þessarar aldar var verkefni þeirra skilgreint eitthvað á þá leið að þau ættu að þroska konur félagslega og vinna að stéttarlegum hagsmunamálum þeirra. Síðan hafa mörg vötn runnið til sjávar og ég er hrædd um að mörg - eða flest stéttarfélögin hafi gleymt þessu. Þeim virðist ekkert umhugað um að berjast fyrir hagsmunamálum kvenna sbr. lélega samninga þeirra um fæðingarorlof.

Og það er raunar ekki skrítið þegar litið er á heildarstefnu verkalýðssamtakanna. En einmitt þetta gert það að verkum að framsækið fólk þarf að leggja aukna áherslu á að færa kvennabaráttuna inn í stéttarfélögin.

## Rauðsokkar þrýstihópur

Þegar Rauðsokkahreyfingin var stofnuð á sínum tíma var það sennilega vegna þess að vinstri menn sáu enga aðra leið færa til að vinna að jafnréttismálum. En Rauðsokkahreyfingin hefur ekki möguleika á öðru en að starfa sem þrýstihópur, sjálf baráttusamtökin þau samtök sem ættu að standa í víglínunni fyrir hagsmunabaráttunni, eru stéttarfélögin, auk samfylkinga um afmörkuð mál, s.s. dagvistunarmál. Og þar sem ástandið í stéttarfélögunum er svo bágborið sem raun ber vitni ættum við að setja starf í þeim númer eitt á verkefnalista kvennabaráttunnar.

## Kvennabarátta og kommúnismi

Þetta var um hagsmunabaráttu kvenna. En kvennabaráttan verður að vera hluti byltingarbaráttunnar því að ég er fullviss um að auðvaldið mun aldrei viðurkenna konur sem jafnréttháar körlum, á vinnumarkaðinum og annars staðar í þjóðlífinu. Þessu mega byltingarsamtökin ekki gleyma í ofurkappi hagsmunabaráttunnar. Þetta gildir raunar um flest önnur mál en jafnréttismál. Stundum finnst mér að EIK (m-l) hafi gleymt háleitu og djörfu markmiði samtakanna í ófrjóu og einangruðu puði sínu. Mér er því mikið tilhlökkunarefni er einhvern tíma verður til kvennanefnd EIK (m-l) sem gefur út kommúnískt tímarit um kvennabaráttu hérlendis og erlendis.

Heiður Baldursdóttir
(greinin er nokkuð stytt)

# Falskur stuðningur

Um daginn voru aðgerðir fyrir utan sovéska sendiráðið, þar sem mótmælt var innrás Sovétríkjanna inn í Afganistan. Þessar aðgerðir voru með eindæmum lélegar og fámennar, ef tekið er tillit til þeirrar "breiðu samstöðu" sem náðist meðal ýmissa stjórnmálasamtaka um þessar aðgerðir. Þessi "breiða samstaða" náðist vegna þess að aðeins var sett fram ein krafa, sem hljómar á þennan hátt: "Sovétríkin burt úr Afganistan." Þrátt fyrir að krafan sé einföld og þannig úr garði gerð að allir, hvar í flokki sem þeir standa, geta tekið undir hana, þá vildu Fylkingin, Alþýðubandalagið og SÍNE, ekki taka þátt í þessum aðgerðum ef ekki væri minnst á hættuna af hinu risaveldinu, Bandaríkjunum. Ef að það hefði verið gert þá hefðu Heimdellingar komið sér út úr þessu samstarfi. Spurningin stóð því um að auka við samfylkingargrundvöllinn, þ.e.a.s. jafnframt því að mótmæla innrás Sovétríkjanna í Afganistan og þeirra yfirgangi í heiminum þá hefði einnig verið bent á hitt risaveldið og glæpastarfsemi þess, og fá þannig Fylkinguna, Alþýðubandalagið og fleiri í samstarfið en fórna Heimdalli. Þetta var ekki gert. Heimdallur fékk að vera en hinir fóru.

Ég er þeirrar skoðunar að aðgerðirnar hefðu verið öflugri og fjölmennari ef Fylkingin og Alþýðubandalagið og fleiri hefðu verið með. Staðreyndin er sú að Heimdellingar virkjuðu fátt fólk enda nenna þessi auðmannabörn ekki að standa úti í kulda og sýna alþýðu einhvers lands stuðning sinn. Mér er reyndar helst í hug að stuðningur þeirra við alþýðu heimsins sé eitthvað takmarkaður. Þeir hafa nefnilega notað sér innrásina í Afganistan sem rökstuðning fyrir því að styðja og efla beri glæpasamkunduna NATO, sem ekki getur talist bandamaður alþýðu heimsins. Auk þessa þögðu auðmannabörnin í Heimdalli þegar Bandaríkin voru að murka lífið úr hrjáðri alþýðu Indókína.

Mín skoðun er sú að EIK (m-l) og KFÍ/ML hafi gert rangt er Heimdallur var tekinn framfyrir Fylkinguna, Alþýðubandalagið og fleiri. Ég held að þarna hafi verið um grófleg mistök að ræða, sem ekki mega koma fyrir aftur. Ég veit um marga stuðningsmenn sem eru sömu skoðunar.

Herstöðvaandstæðingur.

# Kjósanda svarað

Örfá lokaorð til þín, kjósandi. Þér finnst að mér eigi að sýnast 480 atkvæði Fylkingarinnar hálfur hellingur "miðað við stærð framsækinna hreyfingar". Þá snýst spurningin um hve stór hún er. Mér finnst hún greinilega stærri en þér. Reyndar tel ég þessa deilu okkar staðfesta að greiningur um árangur í kosningum sé ekki mikilvægur.

Mig langar til að leiðrétta eitt. Þú gefur í skyn að ég telji kjósendur Fylkingarinnar eintómt hentistefnufólk. Það er ekki mín skoðun.

Loks um framboð EIK (m-l). Mér finnst það stakur óþarfi að halda því fram að ég feli hræðslu við fjöldann á bak við kröfu um vandað framboð frekar en ekkert. Orð mín voru túlkuð á meirihlutaafstöðu EIKar sem þér er fullkunnugt um. Ég var ósammála um tíma, en tel nú að ákvörðunin hafi verið rétt. Kosningar eru stór bardagi. Undirbúningur ræður miklu um það hvenær lið leggur í hann. Það sem þú kallar hræðslu við fjöldann kalla ég skynsamlegt mat á ónógum undirbúningi. Kosningar eru heldur ekki eina tækifærið til að kynna samtökin, þó þær séu vel til þess fallnar, eins og kemur fram hjá þér.

Ari T. Guðmundsson

## Er svigrúm

framh. af forsíðu.

skotaskuld úr því að láta þessa skattleysingja borga fyrir opinbera þjónustu eins og aðra.

Í þriðja lagi má benda Ragnari Arnalds á að fjölga skattþrepum í efri mörkum skattastigans og hækka hann um leið upp í 70% a.m.k.

Í fjórða lagi má afla tekna með hækkandi eignarskatti allt upp í 5 til 10% af eignum stóreignamanna. Þetta er upplögð leið til að skattleggja verðbólgugróða síðasta áratugs, sem ekki hefur verið skattlagður til þessa. Hér er um að ræða ævintýranlegan gróða auðmanna, sem er t.d. mun meiri en stríðsgróðinn var nokkuru sinni, sem sjálfsagt þótti að skattleggja eða a.m.k. reyna það.

Þær skattheimtuleiðir sem hér hafa verið nefndar ættu að nægja fyrir umtalsverðum grunnkaupshækkunum og drjúgum afgangi til félagslegra umbóta og menningarmála. Fleiri leiðir má eflaust finna til grunnkaupshækkana, sem ekki eru verðbólguhvetjandi og bitna ekki á launafólki. Til þess þarf pólitískan vilja. Á þessum vilja hefur enn ekki örlað hjá núverandi eða fyrrverandi stjórnarflokkum, hvort sem þeir kenna sig við sjálfstæði, framsókn eða jafnvel alþýðu manna.

Æ.

## Að gera flokkinn

framh. af síðu 3.

sem meira er, miðað við viðtekna venju innan t.d. Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna er langlíkast að gróðinn sem skapast af þessum aðgerðum verði kyrrsettur í Bandaríkjunum eða jafnvel Bretlandi (EBE) til að fjárfesta þar.

## Sýknað fyrir

framh. af baksíðu.

baki þessara skipa standa "áhrifamenn" í auðvaldsþjóðfélaginu okkar og þess ekki að vænta að til ákæru saksóknara komi.

## Slappt siðferði

Skipakaupamálin sanna okkur enn einu sinni, að menn eru ekki jafnir að lögum fremur en í öðrum efnum hér á landi. Íslenskir áhrifamenn virðast hafa betri tök (samtryggingu) á dómskerfi, fjölmiðlum o.f.l. hér á landi en víða erlendis. Þar er ráðherrum o.þ.h. embættismönnum umsvifalaust vikið úr starfi verði þeir uppvísir að misferli. Auðherrunum okkar líðst aftur á móti átölulaust að nota aðstöðu sína til að svíkja út lán, halda bankareikninga erlendis o.s.frv.

Á þessu skal verða breyting þegar samtök kommúnista eflast.

Æ.

# Til fróðleiks um vísitölur og verð-bólgu

Krafa verkalýðshreyfingarinnar hefur í mörg ár verið fullar vísitölubætur á laun miðað við vísitölu framfærslukostnaðar. (Hér lítum við fram hjá kostulegum kröfugerðum, s.s. þeirri sem ASÍ lagði fram í jan. s.l. í vísitölumálunum).

Nú mætti ætla að næðist þessi krafa fram, myndi kaupmáttur varðveitast óskertur á samningstímabilinu. Því er þó alls ekki svo varið.

Í fyrsta lagi koma verðbætur aðeins á þriggja mánaða fresti og í öðrulagi greiðast þær mánuði eftir að þær eru reiknaðar. En verðbólgan er eins og kunnugt er engan veginn bundin við ákveðnar dagsetningar, heldur æðir áfram tillitslaus um útreikninga Hagstofunnar.

Við birtum hér 4 línurit. Það fyrsta er miðað við 36% verðbólgu á einu ári frá 1. maí n.k. að telja. Við ímyndum okkur að nýir samningar gangi í gildi þá. Beina brotalínan sýnir okkur verðbólguna en tröppurnar sýna okkur kaupið. Hvoru tveggja er miðað við 100 í. maí.




Annað línuritið sýnir okkur hvernig kaupmátturinn breytist á sama tíma. Meðaltalskaupmáttur er á einu ári með fullum og óskertum vísitölubótum u.þ.b. 5% lægri en samið var um.

Þriðja línuritið sýnir okkur verðbólguna frá 1. sept 1978 til dagsins í dag og hvernig 3. taxti Dagsbrúnar hefur fylgt henni eftir.

Fjórða línuritið sýnir okkur hvernig kaupmáttur 3. taxta Dagsbrúnar hefur breyst á sama tíma. Meðaltalskaupmáttur er 6% lægri en hann var 1. september '78.

Línurit þessi sýna okkur að ekki er allt fengið með óskertum vísitölubótum. Verðbólgan er alltaf á undan.

Og það á líka að vera óþarfi að geta þess að þeir sem fá launin sín greidd mánuði eftir á minnka enn meir í kaupmætti en þessi línurit segja til um.

Hér birtist 3. og síðasti hluti greinaflokks um efnahagsstyrk risaveldanna. Í fyrri tveimur hlutunum var rætt um þau efnahagslögmál sem liggja til grundvallar samkeppni stórvelda og hagsmunaárekstrum sem leiða til styrjalda, svo og hvernig ástandið væri í dag hvað snerti efnahagsstyrk risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

Í þessum hluta er haldið áfram að draga fram efnahagsleg atriði í samkeppni risaveldanna og þeirri spurningu svarað hvort þeirra sé hættulegra. M.a. er vikið að þeirri líkingu sem oft hefur verið dregin með Þýskaland fyrir 2. heimsstyrjöldina og Sovétríkjunum í dag.

Efnahagsstyrkur risaveldanna 3. hluti

# Markaðir og áhrifasvæði

Sem kunnugt er er fjármagnsútflutningur mjög einkennandi fyrir efnahagsstefnu heimsvaldasinna. Að þessu leyti er heimsvaldastefna risaveldanna nokkuð mismunandi að formi. Fjármagnsútflutningur Bandaríkjanna er klassískur og vel kunnur, þ.e. fjárfestingar í fyrirtækjum á erlendri grund. Sovétríkin stunda einnig slíkan fjármagnsútflutning, m.a. til s.k. "sameiginlegra fyrirtækja" víða um lönd (1368 slík fyrirtæki eru nú fullbyggð skv. Statesman's Yearbook '78 - '79). Þessi útflutningur er þó lítill miðað við þá dollaramilljarða sem Bandaríkin eiga í fyrirtækjum í Evrópu og 3. heiminum.

Aðrar aðferðir Sovétmanna til að blóðsjúga viðskiptavininn eru t.d. hávöxtuð ríkislán ( sem er ein tegund fjármagnsútflutnings), bindandi viðskiptasamningar, okurvopnasala o.s.frv. Markmiðið er að gera viðskiptalandið sér háð efnahagslega.

Hvað varðar áhrifasvæði hefur bandarískt fjármagn óskorað vald í Mið- og Suður-Ameríku og mikil áhrif í Vestur-Evrópu, en hefur beðið mikil afhroð í Afríku og Asíu.

Sovétríkin sækja á,: þau hafa alræðisvald í Comecon (A-Evrópa, Kúba og Víetnam), úrslitavald í Angóla, Eþíópíu, Afganistan, Laos, mikil áhrif í Indlandi, Bangladesh, Írak og víða í Afríku. Þetta er minni markaður en er á áhrifasvæði Bandaríkjanna.

Þrátt fyrir sókn Sovétmanna hvað snertir áhrifasvæði, sérstaklega eftir Indókínastríðið, hafa þau ekki enn rofið tiltölulega einangrun sína á heimamarkaðnum, bæði í vöruútflutningi og fjármagnsútflutningi. Hluti sovéskrar vöru á heimsmarka'inum var 1977 4,4% og hafði nokkurn veginn staðið í stað frá 1960. Hluti Bandaríkjanna hafði minnkað en var þó 11,4%. Það er misræmi á milli framleiðslustyrks Sovétríkjanna og hlutdeildar í markaðnum. Til að leiðrétta það vantar Sovét bæði áhrifasvæði og tæknivæðingu til að framleiða iðnvarning á borð við Bandaríkin.

stríðshættan

Hvor er hættulegri?

Þar sem bandarískt fjármagn er ólíkt öflugra á heimsmarkaðinum en það sovéska, segja margir að fyrrnefnda risaveldið sé hinu öflugra og þar með hættulegra (að ekki sé talað um þá sem skoða Sovét sem bandamann gegn heimsvaldastefnunni).

Til samanburðar ber að athuga að Þýskaland fyrir seinna stríðið stóð aðeins að 1% af fjármagnsútflutningi auðvaldsheimsins. Á sama tíma var Þýskaland að elta England uppi í framleiðslugetu. En því tókst ekki að þenja markað sinn út með venjulegri samkeppni. Það var einmitt þessi staða sem gerði Þýskaland sérlega árásarhneigt. Því fjármagni sem ekki fékk "eðlilega" útrás í nýlendum o.s.frv. var beint í hergagnaframleiðslu. Til samanburðar má geta þess að sovésk hergagnaframleiðsla er nú komin vel fram úr þeirri bandarísku.

Aðdragandi tveggja liðinna heimsstyrjalda talar sínu máli. Efnahagsþróun stórveldanna nú er sláandi lík þeim aðdraganda. Svo er spurningin: Er ekki vaxandi árásarstefna Sovétríkjanna nú staðfesting á þessum vitnisburði sögunnar?

Þ.

(tölulegar heimildir nær allar úr "Röde Fane")

*Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK (m-l):*

# EIK (m-l) breyta stefnu

Hér birtist 2. hluti greinar, sem Ari T. Guðmundsson hefur samið fyrir hönd Framkvæmdanefndar EIK (m-l) um stöðu EIK (m-l) og leiðréttingaruppgjör innan þeirra. Í 1. hluta, sem birtist í 3. tbl. Verkalýðsblaðsins, dró Ari þá niðurstöðu, að "marx-lenínísku hreyfingin hafi ekki komið fótunum undir kommúnískan verkalýðsflokk á hæfilegum tíma vegna mistaka, rangra stefnuatriða og barnasjúkdóma."

Þá segir Ari: "Þessu upphafsskeiði ætti að vera unnt að ljúka og því verður að ljúka."

## Tvenns konar verkefni

Kommúnísk samtök verða að leysa úr tveimur vandasömum verkefnum. Þau eiga að sameina upplýsingastarf og baráttu. Fólk verður að kynnast marx-lenínismanum og beita honum eða sjá honum beitt á íslenskt þjóðfélag. Um leið þarnast fólk þess að taka þátt í baráttu og starfi til þess að sannprófa hugmyndir sínar.

Í annan stað eiga samtökin að leysa úr andstæðunum milli valinna forystumanna og almennra félaga. Sígild vandamál félagsstarfa koma fram í því að tryggja að fjöldinn velji forystu sem hann treystir og eins að forystumenn og almennir félagar slitni ekki úr tengslum hverjir við aðra. Annars er óvirknin á næsta leiti. Við könnumst við ástandið í verkalýðshreyfingunni.

EIK (m-l) hafa um margt klúðrað þessu tveimur verkefnum.

## Kreddutrúin í verki

Meirihluti félaga Einingarsakanna hefur komið úr röðum ungra menntamanna. Þar er að finna jarðveginn sem óraunsæjar og ójarðbundnar skoðanir hafa þrifist í - andstætt reynslu, raunsæi og hlutlægni sem er algengari meðal hins vinnandi fjölda.

Vinnan við að sameina upplýsingastarf og baráttu hefur átt að færa okkur virka kommúnista. Þeir hafa orðið allt of fáir vegna þess að samtökin hafa verið óþjál og fráhrindandi. Hvers vegna?

Við stefnumótun höfum við oft tekið afstöðu til mála án athugana eða hæfilegra umræðna. Við höfum látið mál, sem fjöldinn er upptekinn af, liggja kyrr. Við höfum varið ranga afstöðu með marxískum tilvitnunum og búið til "formúlur og prinsipp" þar sem slíkt er útilokað. Þrátt fyrir góða spretti hefur þetta leitt til bókstafstrúar, hroka og þröngsýni - einu nafni "vinstri" kreddufestu.

Í sjálfu starfi samtakanna hefur kreddufesta og óraunsæi m.a. birst í því að við höfum oft sniðgengið hræringar meðal fjöldans eða reynt að "búa til" baráttu án nægilegs hljómsgrunns meðal fólks. Við höfum líka gert félögum að vera 100% sammála útávið. Það hindrar eðlilega skoðanabaráttu, stefnumótun staðnar og fólk utan samtakana finnst við vera kreddufastir og ósjálfstæðir. Allt sem einhver segir eða skrifar er tekið sem stefna okkar.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ Stéttabaráttan
Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

5. tbl. 9. árg. 25.2.-9.3. 1980

Lausasala: kr. 300
1.árs áskrift: kr. 5.000
Stuðningsáskr: kr.10.000
Áskr. til útl: kr. 8.500



# Sýknað fyrir skipakaupssvindl

Fyrir skömmu var kveðinn upp sýknudómur í svonefndu Guðmundar-máli fyrir Sakadómi Reykjavíkur. Sökin var talin fyrnd. Hefur málið verið til meðferðar hjá Sakadómi í þrjú ár eða frá 9. febrúar 1978, og málið þegar fyrnt á þeim tíma. Kaupin á skipinu fóru fram 1972.

### Ekki óvænt niðurstaða

Vbl fjallaði talsvert um svonefnd skipakaupamál í október og nóvember s.l. Þar spáðum við því m.a. að þeir sem aðild ættu að þessum svindlmálum þyrftu ekki að hafa áhyggjur af refsingu fyrir misgerðir sínar. Þeir hefðu ríkisvaldið í hendi sér og þar með dómstólana.

Nú hefur tónninn verið gefinn. Geyma málin hæfilega lengi og tefja og tíminn sér um að ekkert verður úr þeim.

Í Guðmundar-málinu gáfu kaupendur íslenskum og norskum yfirvöldum upp 200.000 nkr. hærra kaupverð en það var í raun. Með þessu athæfi sviku þeir út hærra lán en þeim bar. Fjársvikin námu u.þ.b. 80% af þessum 200.000 nkr. eða 160.000 nkr., sem jafngilda ca 13.000.000 ísl. kr. miðað við núverandi gengisskráningu.

### Ekki eina málið

Guðmundar-málið var smámál miðað við þau 18 skipakaup sem í kjölfarið fylgdu og upplýst er að fjársvikum (baksamningum) var beitt. Í þessum 18 tilvikum námu fjársvikin u.þ.b. 35 - 40. 000.000 kr. að meðaltali. Rannsókn skattrannsóknarstjóra er að sögn hans lokið og "sofa" málin nú hjá Seðlabankanum, saksóknara eða Rannsóknarlögreglu ríkisins. Tvö af þessum 18 málum "hafa náð svo langt" að saksóknari hefur fyrirskipað opinbera lögreglurannsókn í. Er hér um að ræða kaup á m/s Skinney frá Höfn Hornafirði og m/s Gullberg, Seyðisfirði. Að

framh. á bls. 6.

...a í skipakaupamáli:
**...ökin var fyrnd**

...leg voru sýknaðir í Sakadómi ...javíkur fjórir menn sem ákærðir ... fyrir misferli í sambandi við ...pin á loðnuskipinu Guðmundi ... til landsins á sinum tíma. Í dóms... segir, að sök þeirra í málinu ...ði að teljast fyrnd. Dóminn kvað ...p Gunnlaugur Briem sakadómari. Guðmundur RE-29 kom til landsins 8. marz 1973 en samningar um kaupin voru gerðir í Noregi 24. október 1972. Í afsali kemur fram að uppgefið kaupverð skipsins var 6,6 milljónir norskra króna eða 87,3 milljónir íslenzkra króna á þáverandi gengi. Grunur lék á að rangt kaupverð hafi verið gefið upp við íslenzk yfirvöld þegar skipið var keypt — og þannig brotin lög og reglur u... eyrisviðskipti og skattframtal...

Kaupendur Guðmundar ... Fiskiðjan s.f. í Keflavík, ... skipinu, og ... Gunnarsson og Páll Guð... með 30% hvor.

## Skipulagsleysi í skattamálum

Núgildandi skattalög voru sett vorið 1978 og tóku gildi 1. jan. 1979. Þessa dagana er verið að hræra í lögunum og sníða af þeim annmarka. Þeir munu flestir stafa af því að fylgifrumvarp skattalaganna um staðgreiðslukerfi skatta hlaut ekki samþykkt um leið. Það er athyglisvert, að það er ekki fyrr en á síðustu vikum sem farið er að huga að þessum breytingum sem leitt hefur til þess að skilafrestur framtala hefur verið framlengdur í tvígang. Þetta ruglar allri álagningu og vinnslu og skapar ómæld vandræði fyrir framteljendur og skattstofustarfsmenn.

óhs

o



## 1. maí framundan

1.maí er ekki langt framundan. Það þarf að fara að huga að því hvernig beri að undirbúa aðgerðir þann dag.

Ýmislegt kemur til greina. Ganga með fulltrúaráðinu í Reykjavík, beita sér fyrir samfylkingu ýmissa samtaka og flokka, stofna til frumkvæðisnefndar fólks úr verkalýðshreyfingunni eða ganga með Rauðri verkalýðseiningu.

Stefnugrundvöllur aðgerða 1. maí þarf líka að skoðast. Á aðeins að leggja áherslu á eitt mál ( t.d. gegn árásum í lífskjör) eða taka afstöðu til margra mála. Hvert þarf t.d. vægi alþjóðamála að vera á 1.maí?

Verkalýðsblaðið - Stéttabaráttan þiggur með þökkum allar ábendingar og hugmyndir lesenda í þessu máli. Sími blaðsins er 29212, skrifstofan er opin frá 8.30 til 12.30 alla virka daga að Frakkastíg 14.

o

## Ályktun frá EIK (M-l)

Framkvæmdanefnd miðstjórnar Einingarsamtaka kommúnista lýsir yfir stuðningi samtakanna við kröfur farandverkafólks, er settar eru fram af Baráttuhópi farandverkafólks.

Samtökin hvetja einstaklinga og samtök til þess að styðja baráttu farandverkafólks. Þau skora ennfremur á forystu ASÍ og sérhvert verkalýðsfélag að fylgja kröfunum eftir, bæði í samningum og á vinnustöðum í samráði við farandverkafólk.

26.02.80.

*Ráðstefna í Félagsstofnun stúdenta*

# Er nauðsyn á nýjum verkalýðsflokki?

Þann 21. febr. síðastl. gengust EIK (m-l) fyrir ráðstefnu um verkalýðsflokk; markmið með stofnun hans, stefnuskrá og skipulag. Framsögumenn voru Snorri Sigfússon, Kristján Guðlaugsson og Ari Trausti Guðmundsson.

Snorri ræddi um stöðu vinstri hreyfingarinnar almennt og kom sérstaklega inn á þátt marxista-lenínista í henni. Hann gagnrýndi marxista-lenínista einkum fyrir þrennt. Í fyrsta lagi fyrir of mikið fræðistagl. Í öðru lagi fyrir og neikvæða afstöðu til Alþýðubandalagsins og Þjóðviljans. Og í þriðja lagi fyrir stefnuleysi í efnahags- og kjaramálum.

Kristján ræddi um þróun marxísku-lenínísku hreyfingarinnar síðustu tíu ár og taldi að gagnrýnin á Alþýðubandalagið ætti um margt við rök að styðjast. Þrátt fyrir þetta hafi marxistar-lenínistar verið of neikvæðir í gagnrýni sinni á Abl. og ekki metið það sem vel hefur tekist.

Hann tók undir með Snorra að umræður hafi einkennst um of af fræðistagli. Kristján taldi að í nýjum verkalýðsflokki yrða að vera miklu opnari og lýðræðislegri umræða en verið hefur.

Ari Trausti ræddi um hugmyndir sem EIK (m-l) hefur haft varðandi nýjan verkalýðsflokk; markmið, stefnu og skipulag. Hann sagði það skoðun sína að þessar hugmyndir þyrftu að taka til umræðu og endurmeta með hliðsjón af íslenskum aðstæðum.

Í hópaumræðum og almennum umræðum eftir að framsögum var lokið komu fram margar gagnmerkar skoðanir og verða hér fáeinar nefndar. Það var bent á það að fyrsta skrefið í myndun nýs verkalýðsflokks yrða að ná til almennt vinstri sinnaðs fólks í Abl., Fylkingunni og annars staðar. Það er því ekki skilyrði að menn séu sammála um allt. Það kom einnig fram að þegar við reyndum að ná til fólks innan Abl. og Fylk. verðum við að forðast það að hvetja þetta fólk til óheiðarlegra vinnubragða heldur verðum við einmitt að hvetja það til að berjast fyrir sósíaliskri stefnu innan síns flokks. Á þeim grundvelli einum er mögulegt að ná til þessa fólks og starfa með því. Það á því alls ekki að vera okkar að "brjóta niður" Abl. og Fylk. heldur að hvetja þau til sósíalískari stefnumótunar. Að síðustu er rétt að koma á framfæri þeirri tillögu að ein eða tvær síður í Verkalýðsblaðinu verða ætlaðar til umræðu um nýjan verkalýðsflokk og eru allir hér með hvattir til að láta skoðanir sínar í ljós. Það er einungis með stuðningi, lesendur góðir, sem nýr verkalýðsflokkur verður til. -/g.







Ekki tókst vel til með myndatöku í Félagsmálastofnuninni. En hér höfum við þó fengið myndir af framsögumönnum ráðstefnunnar, þeim Snorra Sigfinnssyni, Kristjáni Guðlaugssyni og Ara Trausta Guðmundssyni.



Benedikt Davíðsson.

## „Stuðningur af Alþýðubandalaginu" – rætt við Benedikt Davíðsson

Verkalýðsblaðið - Stéttabaráttan hafði samband við Benedikt Davíðsson, formann Sambands byggingamanna, og spurði hann hvort hann væri einn þeirra sem "mætu meira flokkinn en verkafólkið" eins og spurt var í 3. tbl. VBL.

"Ég get fullyrt það að verkalýðshreyfingin mun leggja sig fram um það að ná sem mestu af sinni kröfugerð. En hver árangur verður er ekki hægt að segja í dag, því viðræður eru rétt að byrja."

Benedikt sagði síðan aðspurður, að þátttaka Alþýðubandalagsins í ríkisstjórn hamlaði ekki kjarabaráttu verkalýðshreyfingarinnar. "Hún fær frekar stuðning af þátttökunni en hitt. Það hefur verið reynsla okkar í verkalýðshreyfingunni að okkur hefur verið gagn af því að hafa Alþýðubandalagið þeim megin."

óhs.